# Stuttur Leidarvísir til Gardyrkju,

ásamt litlum

Vidbætir

um

Vidar-plöntun,

handa Bændum.

Saminn af

Jóni Þorlákssyni Kjærnested.

Videyar Klaustri, 1824.
Prentadur á kostnad Rithöfundsins,
af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

## Kjæri Bóndi!

Svo gódri þeckíngu, ſem fleſti enn færri íslendſkra Bænda hafa nád á qvikfjár-rækt, túna og slægjulanda umhirdíngu og sjóarbjargrædis útvegum, og ſvo mikinn dugnad, ſem allmargir þeſſara ſýna í ad fæ ra ſér allt þetta í nyt, ſvo lítid hefirdu enn, *kjæri Bóndi!* numid af Jardyrkjunnar nytsömu Frædum, og ángrar mig þad mikid, einkum þar eg þykiſt fullviſs um, ad hefdir þú nád í henni sömu þeckíngu, ſem á enum fyrrtöldu næríngar atburdum, mundirdu efalauſt álíta *Jard-* og *Gard-yrkjuna* hinum jafn-ómiſſanlega, og hennar ard ecki sídur drjúgann, hollann edur affara gódann heimilis þörfum, já, allopt miklu viſſari sjóar útveginum, ſem æ er ſtopull.

Margir Medbrædra þinna hafa líka fundid *Gardyrkjuna* jafn-naudſynlega *Islands* þörfum, ſem mögulega eptir landslagi þeſs, og ſú

fullvissa hefir hrært hid edallundada konúngl. *danska Landbústjórnar Félág*, til líknar þess innbúum í tédu efni, og því, eptir Konúngsins allramildasta vilja og med hans hjálp, látid sér mjög svo annt um, ad *Gardyrkja* kæmist, sem best í brúkun á medal vor.

Skyldug þacklátsemi og hlýdni vid ádur háttnefnt *Félag*, ásamt ást til fósturjardar minnar, hvetur mig til ad auka þeckíngu þína á því, sem vidvíkur *Gardyrkju*; þess vegna, og til ad fullnægja nockurra hennar vina tilmælum, frambýd eg þér nú stuttann *Leidarvísir* til *Gardyrkju* og hennar *Gagnsmuna hagnýtíngar*, ásamt fleiru smávegis þaradlútandi. Fáordt er Agrip þetta ad sönnu, en eg vona samt: ad þegar þú med athygli og kostgæfni ræktar *Kálgard* þinn fyrst og seinast, rétt eins og þad kénnir, og notar þér líka eptir því uppskéruna, muni þér bædi vyrdast þad hjálplegt til leidsagnar, og lystin hjá þér örvast til *Gardyrkju*, en þú bædi finna

og játa verda hana jafn-ómaksverda og nauð-
synlega ödrum bjargrædis útvegum vorum og
flestum þeirra kostnadar minni.

Eins er *Trjávidar plöntunar* adferd, hvér-
ja eg stuttlega sýni í *Vidbætir* þessa Bæklings,
voru skóglausa landi ýfrid naudsynleg. Satt
er þad, ad vér fáum ecki strax notid gagns-
muna hennar; en — þó vér dæum fyrr enn
vér nytum þeirra, mundi medvitund sú, ad
hafa bædi med *Trjávidar plöntun* og fleiru
nytsamlegu gagnast eptirkomendunum, auka
allra velþenkjandi hugar rósemi.

Notadu þér því, *gódi Bóndi*! þennann
minn *Gardyrkju Leidarvísir*, þó fáordur sé,
sem best þú gétur; eg hefi skrifad hann í
þeim tilgángi, ad kynna þér þessa Búnadar-
frædi, sjálfum þér til nota, og Gud mun —
og því hefir hann lofad — umbuna loflegt
starf þitt med ríkuglegri uppskéru.

*Skridu í Hörgárdal*, þann 4da
Martz 1824.

J. Þ. KJÆRNESTED.

## 1. Um Gardstædi.

Gardstædi er jafnan naudsyn ad velja sér í sem bestu skjóli fyrir vindum, einkum nordannædíngum, og ætti þad því helzt ad liggja móti sólu, svo þad njóti því betur hennar ils. Þó jardlagid sé ecki ávallt samansett af bestum jardar-tegundum, geta samt ymsir garda ávextir, med hentugum áburdi til sérhverrar tegundar, vidast hvar sprottid, líka þrífast jurtir betur í einni heldur enn añari jardar-art, sem reynslan ad nockru leiti fær kennt. Hér ad upptelja allar jardar-tegundir og þeirra besta sambland, yrdi ofmikil málalengíng, en kiæmi máske vidvaníngum ad litlum notum fyrst í stad, jafnvel þó þad verda mætti grundvöllur gódrar gardyrkju, fyrir þá, er rétt kunna ad sundurgreina jardar-tegundir, eins og duglegir búmenn erlendis nú gjora.

Einúngis vil ég þess hér geta: ad þad jardlag reynist flestum gard-jurtum hentast, sem samsett er af tegundum þeim, er miñstañ hafa í sér málm-edur járn-artada veru; heldur sé til jafnadar blandad af mold og leiri ásamt sandi; því sé sandurin mátalega mikill, verdur jordin nægilega laus, en án hans ofþétt, svo hverki vatn né rætur jurtaña geta til hlýtar þreyngst í gégnum hañ. Þvert á móti, gjæti sands framar en leirs, seckur vatnid offljótt í hana, og verda

þá rætur jurtanna næríngarlausar af ofþurki, og of lausar fyrir til ad standast vindaña megn. Jafnast er grasrótar moldin hentust til blöndunar med leir-ríkum jardvegi; er því best, ad gardurinn sé svo stór, ad ecki gángi allur grasvegur uppí gírdíngar hans, svo ad þad rótminnsta verdi barid sundur og jafnad yfir gardstædid, hvar þad, med tímalengd, myldast og fúnar. Varast skal ad setja gardstæti nálægt kaldaverslis uppsprettu, vegna ens skadlega súrs og kulda, er þadan leggur; því best er ad jordin beri sem minnstann beiskann edur súrann daun, en einúngis af fáa í sér.

## 2. Um Garda áburd.

Eptir því, sem jordin hittist í gardstædinu, þarf ad hagtæra áburdinum. Sé hún sendin, er best Kúamykja til áburdar; en í deiglenda Sauda- og Hrossa-tad blandad Díku og Veggja-moldu vel fúinni, sem er yfrid hentug vid of-leir-ríka jordu. Hrossatad, sem fyrst tekur ad brenna, er, í því tilliti, líka allvel kjörid, jafnvel þótt þad útbrunnid egi best vid þurrlendi. Kúa- og Sauda-mykja, og yfir höfud allur áburdur er þá bestur, þegar hann er sem mest ad brjótast eda í ólgu-gáng kominn, því þá verkar hann sterkast til jurtanna frjófsemdar, ad fráteknu í ofþurru edur sendnu landslagi.

Nyr áburdur er því í flestum kríngum-stædum kraptminni, enn þá hann er ad brjótast, því rotnanin eykur honum meiri varanlegleika; en án þess hann sé í dýngjum edur haugum saman, fær hann ecki ólgad til hlýtar; ecki heldur, ef haugarnir eru annadhvert stórir, ellegar ecki flatir ad ofan, svo loptid nái í midju til ad setja áburdinn í ólgu-gáng.

Reynslan kénnir hverjum einum best, hve margt til áburdar-auka notad verdi, t. d.: Kálgardur einn á mínum bæ, hefir í mörg ár enganu annann áburd fengid, enn hland úr fjósi á vetrum, hellt yfir haug af fúinni veggja-moldu, og samanrokudum hrossatads-hrúgum af túni og bæar-hladi, sem ad hausti var í kálgardinn borid, en um hann ausid á vorum. Þetta hefir svo gódann ávoxt fært, ad úr hverjum ferhyrndum fadmi, hafa komid 2½ sképpur Túrnips-rófna og Næpna. Til ad eyda áburdar skorti hentar og vel ad tilbúa bæarforir, afsídis edur á bæa baki, en ecki nálægt kalldyrum, hvar í safna megi skolpi öllu og slori, ásamt vallar-afrakstri, med fleirum óhreinindum, sem til kynnu falla; verdur þad ágætur áburdur, þegar þad allt hefir samanblandast, brotist og rotnad um 2gja ára tíma. Ad setja hross í réttir um nætur á sumrum, og auka þar-med áburd, hefi eg lítid eitt vikid á í Klausturpósts 3ja Árg. bls. 102.

Til Kálgarda eins og til túnræktar er mykja sú, sem á sumrum safnast, hin kreptug-

aſta; þeſs vegna gjætu þeir, ſem búa í ſveitum, hvar venja er að láta kýr liggja úti á ſumrum, aukið áburð ſinn með því, að halda þeim inni á nóttum, annaðhvert í fjóſum, eður hentugum húſum nálægt túngarði; þann áburð er béſt að blanda með oſku, ſvo að ekki ofrírni af maðki, ſem ella ſkéður*).

Aldrej verður offogum af því ſagt, hve á-burður má teljaſt oſs dýrmætur, þar á honum byggiſt vor kúa og garða ágóði; því virðiſt mér nauðſyn að minnaſt á, með hverju hann helzt drýgja mætti, einkum þar víðarſt er qvartað yfir þeim ſkorti. Það mætti þeſs vegna teljaſt með nytſomuſtum vor-verkum, að grafa mótorf til eldiviðar, hvar því viðkomið verður, ſvo Sauða-tað brúkaſt megi ſem meſt til áburðar.

---

### 3. Um uppſtúngu og undirbúníng Kálgarða.

Á því ríður mjøg, að rugla og róta vel nýplægðri garðmoldu, ſvo að hún þar við ſmækki

---

*) Að útilega kúpeníngs um ſumar-nætur, auki mjólk þeirra, ímynda ſér fólk ſér; en reynſlan ſýnir: að þegar kýr venjaſt við að liggja inni, mjólka þær ſannarlega fullt eins vel og jafnara. Það er og all-líklegt, að ſú mikla umbreytíng fyrir kýr á hauſt-tíma — ofan á útilegu um kaldar

og útdampi þeim súru vessum, sem eru jardar á-voxtum skadlegir. Á haustum er enna hentug-ast ad uppstúnga þvílíka nýuppteknu garda, séu þeir þurrlendir, og á stúngan ad gjörast med pæli, svo ad sem stórgerdust verdi og mest holt á milli, svo ad klaki og snjór fylli þad hol og ójöfn-ur í moldinni; því, þegar klaki sá þydnar, gjör-ir hann moldina deigari. Vid votlendt gard-stædi telst þvílíkt óhentara, í hvert heldur ecki skal áburd færa ad hausti, því undir honum þydnar ætíd seinna enn ella, svo gardurinn verd-ur ecki nógu snemma hæfur til ad pælast upp ad nýu.

Þegar moldin í gömlum gardi er smá og, vidfeld ordin, er henni svo snemma á vorin, sem verdur, umbillt og hún uppstúngin á fylgjanda hátt: þegar búid er ad breida áburdinn jafnt út-yfir allann gardinn, skal med reku — sé ecki járn-spadi til, sem þó er hentastur — byrja ad stínga í þeim parti hans, sem helzt er þorf á ad mold særist mest til upphæckunar; sídan er stúngid smátt og jafnt med rekunni, en þó nógu djúpt, og hvelst í hvert sinn af henni mold þeirri, sem á henni liggur, svo þad helzt verdi nedst, sem ád-ur var ofaná, er skédur best med því, ad nockurt millibil, sem gata, sé milli þess stúngna og ens óumrórada. Vid hvert reku-far skal med rekuhorninu slá í sundur þá klumpa, sem í mold-inni verda; en þegar þanninn er uppstúngid hér

nætur — ad svælast í heitum fjósum, olli þeim enna algengu Doda sótta.

um álnar breid roſt yfir þverann gardinn, ſkal med járntinda hrífu, nockud gisteenntari enn venjuleg heyhrífa er, fara yfir alla roſtina ad ofan, ſvo ſlétt verdi, og grasrætur allar rakiſt ofan í millibilid, en þær verdi undir moldinni og fúni þar. Þanninn ítrekaſt þetta verk, uns allur gardurinn er búinn, og hann er ordinn eggſléttur, eru þá trodnir gángvegir og afmorkud bed, eptir ſveuntri ſinnu, ſvo bein verdi; rugla ſkal ſamt á ný med járntinda-hrífunni í hverin bedi, og ſlétta þad betur, einkum ef moldin hefir þornad, ádur ſád edur plantad er, ſem eptir vedráttufarinu verdur ad gjoraſt ſeint edur ſnemma þar eptir. Þegar nú ſvo er adfarid, ſem hér ſegir, þarf eckert ad berja í gardinum, og reyniſt þad optar ſkadlegt enn gagnlegt; því vid þad þéttiſt moldin nedſt, en verdur ad ofan laus og létt um of, þegar þurkar og vindar uppáfalla. Ad burtrydja ofſtórum ſteinum úr gardinum, þarf varla ad nefna, því þetta er alkunn naudſyn.

---

## 4. Um tilbúníng Vermibeds.

Ad brúka Vermibed, til ad fá ſnemmvaxnar plontur, er ómiſſandi fyrir þá, ſem girnaſt ardſama uppſkéru. Þar til brúkaſt Grof nockur, ad dýpt 1 alin, og á breidd $1\frac{1}{2}$, en lengdin ágvardiſt eptir ſtærd umplontunar-plátzins. Þeſsi grof á ad vera í beſta ſkjóli í gardinum fyrir nordan-átt, og eins þó annarſtadar ſé hofd, ef

gardurinn ecki vyrdist óhultur fyrir qvikfénadi. Betur fer ad hlada grof þessa umhverfis med hnausalögum ad innan, allt ad bormum hennar; en fyrir ofan jardvegi er hún, til upphækunar, venjulegast umgirdt vidarbordum ad utan, þan-inn: ad sunnanverdt — mót sólu — sé helsingi lægra enn á nordurhlid grafarinnar, nefnil.: 1½ qvartil ad sunnan, en 3 ad nordan; þeir, sem ecki hafa bordin, géta eins vel brúkad jafnháa hnausa-girdíngu. Um Sumarmál fyllist grofin med Hrossatad; sem í gétur hitnad, og er eldishestka tad þar til kraptmest, hvar í blandast á nockud af ónýtum hey-rudda, modi eda ödru, þvílíku, til ad auka med varma áburdarins. Til ad fá sér sem haganlegastann Vermibeds á-burd, er vel tilfallid ad moka ecki hús þad, hvad-an hann takast skal, seinast vetrarins, heldur bera í áburdinn fyrrtéda hluti, sem líka minka bleytu hans. Þetta t grofina ætlada tad sé svo annadhvert geymt í húsinu, ellegar því útmokad í hauq, uns á þarf ad halda. Nú skal fylla grofina med þessum áburdi jafnhátt hledslunni ad innan, og sé hann þar þétt nockud samantrod-inn; þar ofaná leggist 1½ qvartils þyckt lag af gódri gardmoldu, blandadri gömlum áburdi og litlu af ösku, ásamt trésagi, nema af eik sé; skal þetta sídan jafna ofantil, sem annad bed, en láta því þó, eptir umgirdíngunni, halla mót sólu.

Eptir nockra daga er í þetta Vermibed sád fræinu fríhendis úr lófa manns, mátalega þétt, svo ad plönturnar hafi gott rúm þegar

stæcka; er sídan lauslega farid med hrífu yfir moldina, svo ad frædi hverfi í tid eitt ofaní hana. Líka má hylja fræid med því móti, ad breida moldu yfir þad hálfs þumlúngs þyckt, en róta þá ecki til á eptir. Þetta bed þarf med varúd ad vökvast, og aldrei í miklum kulde, fyrir hverjum vardveita þarf úngar plontur, og einkum fyrir næturfrostum; er því best ad egja mottu úr me'staung, marhálmi edur lángri stör, sem til búa má þannig: ad smá bindini eru tekin og samanfest med ullar-þrádum, er svo mottan logd á grind edur þad, med hverju rept er yfir Vermibedid. Nýta má og poka til þessa eda tuskur adrar, um stuttann tíma; því ef til lengdar er byrgt yfir bedid, verdur hitinn of-mikill, svo ad plonturnar missa þar undir hid fría lopt og ljós, visna upp, og ná engum þroska. Þetta skal starfa svo tímanlega á vorin, sem vedurátt leyfir, t. d.: þegar jord tekur ad gróa, og jafnvel fyrri, nefnilega: um Sumarmál, svo ad plonturnar — sem sagt er — nái því meiri þroska, og verdi því fyrri um-plantadar. Blómkál, Hvítkál, Raudkál, Safakál, Virgis- og Græn-kál, ásamt yfir- og undir-jardar Kálrapí, þarf allt lángonn aldur til vaxtar, og er því hent til allra þessara tegunda ad sá í Vermibed.

---

## 5. Um Plönturnar adferd.

Þegar plönturnar eru í Vermibedinu edur annarstadar ordnar 2gja til 3gja þumlunga háar, er mál ad umplanta þær. Vökva skal þær ádur enn upp eru dregnar, svo sídur slitni rætur þeirra, fyrir utan þær smærstu, er ekki saka. Plönturnar leggiast nidur í ílát, sem byrgist ad ofan, svo hvørki þorni þær né visni á medan plantad er. Til plöntunar skal brúka nidurmjóann tréhæl, þumlungs gildann og fí-valann, en stúra er spennt yfir endilángt bedid, og nidur med henni giøraft holur med hælinum, hverjum halda skal í hægri hendi, jafnótt og hver planta er nidursett, þanninn: í vinstri handar lófa sé lauslega haldid um nockrar plöntur, og sé tekin þadan hver eptir adra med hægri hendi, og lögd í milli vísi- og mid-fíngurs vinstri handar svo, ad midja bladanna verdi á milli fíngranna, med hverjum plantan er sídan nidursett í þá gjørdu holu, allt upp ad hjartablödum; skal lítid eitt hrista hana vid umleid, svo ræturnar bøglift ecki, og þarf þess vel ad gæta, ad holan sé nógu djúp. Þar eptir skal med hægri hendi stínga hælnum nidur til hlidar vid fyrri holuna á ská, ofan undir plöntunnar nedstu rætur, en þrýsta þannig þeirri mold, sem á milli er, med plöntunar-hælnum þétt ad plöntunni, ad hún verdi fost þegar í hana er tekid, á hverju mjög ridur. Sídan er helld

vatni med eysli ad rót hverrar plöntu, en ecki á blodin sjálf. Eptir því skal gisid eda þétt gródursetja, sem sú káltegund krefur, er plantast á; milli Grænkáls plantanna þarf 1½ qvartil, en milli allra hinna ádurnefndu kál-tegunda, veitir eckert af hálfri alin, svo ad moldinni á milli verdi hrúgad upp med kálinu, þegar hæcka tekur. Á því rídur, ad verk þetta leysist sem fljótast af hendi, þó í fyrstu verda kynni nockud taffsamt; en því hefir eg svo glögglega hér um ritad, ad eg veit marga tæpa í þessu veki, á hverju þó mikid rídur, einkum vid flestar kál-tegundir, og er hérgreind adferd sú, sem best á vid þeirra edli.

## 6. Um Gards sáníngar adferd, sundurdeilingu hans og Fræs prófun.

Hér er meint til þeirrar sáníngar, sem ecki er gjörd í Vermibed — hvar um ádur er talad — heldur í þá parta gardsins, sem ecki eru ætladir til umplöntunar, hver sáníng einnig er hentugust vid alla undir-jardar ávexti. Um adferd þessarar sáníngar er ecki verdt ad fjölyrda, því hún er flestum kunnug, eins og hitt, ad hún gjörast þarf í tækann tíma, og svo snemma, sem vedurlagid leyfir. Best væri samt ad sá ecki fyrr, enn óhætt væri um frost, af því

kálid vill þá heldur vaxa í njóla. Ecki þarf dypra ad sá, enn uppundir nedsta hrúa vísisingsins, ef fræid er af náttúrunni stórt, svo sem kálteg undanna; en Rófna- og Næpna-fræ er ætíd smærra, og verdur því ad sá þessu grynnra. Þó fleiri enn eitt frækorn falli í holu, skadar ecki, ef fræid er slæmt; því þó fleiri enn eitt uppkomi, má uppræta adra plöntuna um leid og arfi er numinn. Þegar von er á miklum ávexti Rótna og Næpna, ætti aldrei ad setja kornin þéttara enn svo, ad $1\frac{1}{2}$ qvartil sé á milli hvers þeirra. Ad sá fríhendis, líkt og í Vermibed, nema gisnara, er mjög svo hentugt þegar fræid er slæmt, og má þá líka upprickja nockrum plentum, hvar þéttast standur, smámsaman til brúkunar á sumrum, þegar litid eitt baxnar eru. Ad skipta gardi í 4 parta, fer dável, en þá skal líka bera vel áburd í þann eina part á ári hverju, og planta hann edur sá med vfirjardar káljurtir þad árid, því Rófur og Næpur vaxa ofmikid yfir jordu og undireins minna til rótarinnar í nýtaddri jordu. Til ad vera viss um, hvert fræid er gott eda ecki, er besta rád: ad fylla stórk edur kassa gódri moldu, og setja þar í talin frækorn, halda sídan þessu í nógum varma, vökva þá vidþarf, og vita sídan hvert þad nær tölunni, sem uppkemur, eda hvad mikid ávantar.

---

7. Um

## 7. Um vøkvun Gardanna.

Eins og eg hefi ádur ávikid, ad vøkva þurfi strax eptir plöntuinina, eins þarf þess líka vid eptir sáningunna, sjáist ecki fyrir regn eda vot-vidri; þó er ecki verdt ad gjøra þetta mjøg opt, síst þá blød eru uppkomin, gángi þá ecki því lengur breiskja og þerri-vindar; því sé moldin mátalega þétt, verdur hún þad um of vid vøkvunina Fúlt stoduvatn er best, en sár-kaldt lækja- edur brunná-vatn skadlegt, nema þad megi standa í tjørn, edur renna lángt t.d. svo velgnad géti af sólarhita ádur enn brúkad sé. Þetta þarf því ætíd ad athuga, þegar gard-stædi er valid. Best er ad vøkva á qvøldum, en ecki um midjann dag, því þá bregdur plönt-unum mest vid, ef heitt er; þó er þad á stund-um ómissandi í hvassvidrum. Hentugust er hér til vøkvunar-kanna, og er audveldt ad gjøra hana af tré; er hún ómissandi þeim, sem áhyggju ver til gardyrkju; í hennar stad má brúka flauta-þyril, þó vatnan med honum sé miklu seinlegri, og jafnvel skadleg, ef ólaglega fer.

## 8. Um ad verja Arfa-vexti og ad uppræta hann.

Opt veitir nærsta torveldt ad uppræta Arfa og annad íllgresi úr gørdum, þegar nær þeim

gródri ad fella þar fræ; því er mjøg svo nauðsynlegt ad nema á burt allt bareßi í tíma, svo ecki felli fræ, sem annars tímgaſt þar margfaldlega og hindrar kál-voxtinn. Ecki má Arfi heldur vaxa á haugum heim, sem ætladir eru til kálgarda áburdar, ellegar á girdingunni sjálfri og gángvegum milli bedanna. Til léttirs ad burthreinsa Arfann, einkum á milli Káls og Kartøfflu-rada, brúkaſt koſtnadarlítid verkfæri, edur ſkofu-járn, líkaſt ſtuttu rekuvari, og er þad bein járnplata, rúmt 1½ þumlúngs breid, med tánga út úr midju hennar annarsvegar, og gengur tángi sá uppí ſkapts-enda, sem vera þarf svo hátt, ad madur géti vid þad uppréttur ſtadid. A nedri brún járnsins sé egg eins og á hefil-tønn. Med þessu ſkofu-járni ſkal birja ad upprœta Arfann framundan sér, en gánga ſídan apturábak jafnódt og uppſkérſt; en svo ad járnid gángi lidugt og ſundurſnidi Arfa- og annars íllgresis-rœtur efſt vid moldina edur í henni, er tánginn lítid eitt beygdur nidur í midju á þeim parti hans, sem fram úr ſkaptinu ſtendur, og þess vegna á líka snideggin ad snúa upp framantil á því. Þegar verki því er lokid og Arfinn ordinn hálfvisnadur, ſkal hann burtnema med hondunum, eda, verdi því vidkomid, raka honum saman med ſtutthofdadri hrífu, svo ad moldin falli laus frá honum. Þad er og annad Arfa-nám: ad lesa hann allann úr; hvert

verk, þó seinlegt sé, verda þó margir vid æfínguna þar í greidvirkir, einkum þeir, sem hreinlega adferd vidhafa, og meta ósæmd ílla ad hirda um Aldingard.

---

## 9. Um hirdíngu Aldingards ávaxta um gródrar-tímann.

Fyrir utan ad burtnema Arfa á sumrum úr Aldingordum, þarf ad hrúga moldu upp med sumum ávoxtum, líkt og vid Kartefflur er gjort. Allar yfirjardar Káljurtir þurfa þessa vid, ad fráteknu Grænkáli. Þar til brúkast Hrúgunar-járn (Hyppejærn) nockurt, sem líkast er því, sem beygdur væri vid skapt-augad hálf-slitinn, mjór járnspadi, svo hann væri rétt vínkils-krókbeygdur vid skaptid, sem vera skal eins lángt og á skofu járnínu. Med þessu verkfæri skal raka ríflega moldinni upp ad plontuleggjunum þá hæcka taka, og má þetta ítrekast 2svar eda 3svar á sumri; en varast verdur ætíd, ad mold falli á blodin sjálf, en þó síst ofaná hjörtu plantanna; því allt ryk, sem þar á fellur, hindrar voxt þeirra; því er og jafn skadlegt ad vokva med mjog moldar- eda leir-gruggudu vatni. Í stad þessa verkfæris má og brúka stutthofdada kláru. Þetta jardar-los eykur voxt Kálsins, hvert einnig brúka má lítid eitt vid Kálrapa, einkum yfirjardar. Sé þetta verk ítrekad þrisvar á

sumri, sem vera ber, þá hindrar það ágæta vel þar að auki vöxt Arfa og annars illgresis. Varlega, og ecki um of, skyldi blöð skéra af Næpna- eðr Rófna-káli á sumrum, því svo virdist, sem undirvöxtur þess verdi þar við jafnminni enn ella.

## 10. Um geymslu Matjurtanna.

Aður enn frost nær til Undirvaxta, verða þeir úr gördunum upp að takast, þurkast og skiljast frá moldinni fyrr enn inn séu látnir, til hvers velja þarf hann stað, að hverki frost né hlýindi nái til þeirra. Særstir munu, fyrst um sinn, átt géta kjallara til geymslu þeirra, og hljóta því, í hans stað, að brúka jarðgröf í hentugu innanbæar húsi, hvar ávexti má moldarlausa allvel geyma, ef byrgt er að ofan þegar frost leitar inn. Kál það, er geymast á sem nýtt, til vetrar-brúkunar, skal upptaka í góðu og þýðu vedri, og svo bera inn í hús með varúð, að blöðin ecki bráknist, hvar því er upphlaðið eins og girdíngu, við vegg, þar sem þyðvidri sem sjaldnast til nær, en frost skaðar það ecki. Allar rætur þess ega að snúa að veggnum, og leggist svo hvert lagið ofan á annað, með sendi blandinni mold á milli, svo hún nái nockuð fram á blöðin sjálf. Á þenna hátt hefir Kál geymst óskémt til Einmánaðar.

Líka er venja: ad setja þad á gólf, eins og plantad væri, svo þétt, sem verdur, í lausa moldu, hvad þó annars tekur meira rúm af enn hin adferdin. Ad hengja Kál uppá þrádar-stag, hvar lopt frítt leikur um í húsi, svo ad rótin snúi upp en toppurinn nidur, er og all-gott; því þó þad vid þá geymslu sýnist visna, er þad samt eins ad gædum, á medan þad heldur sínum græna lit. Grænkál þolir og úti ad standa lángt fram á vetur. Þegar undirjardar Kálrapí er adskilid ad rót og blodum, verdur kál þess ecki geymt nema saltad edur súrt, eins og annara Rófna kál, ef brúkast skal. Sé saltad, eru dygrustu leggir teknir úr, en blodin størsoxud; sídan er ad solt-un farid sem vid kjøt, og jafnódt bætt á ílátid, eptir því sem í lækkar undan pressunni, hvér vera þarf þúng, og loksins er þad vandlega byrgt, eptir þad hldu - daun tekur af því ad leggja. Einfølduft medferd Súrkáls er sú: ad eptir þad búid er ad smásaxa þad vandlega, er þad sodid í svo litlu vatni, sem mögulegt er, uns þad nockud meyrnar, og þannig er safnad hverjum þess graut í vel heldid ílát, í hverju þad af sjálfu sér fær þægann og hollañ súr*);

*) Sá annar máti ad tilbúa Súrkál, er þessi: Kálid, á réttum tíma upptekid, er skorid í 3 edur 4 parta, svo bétur rúmist; sídan er pottur yfir eld settur med hér um 1 potti vatns ef þurr-vidri er, í votvidri minna; hér í er Kálid látid sjóda nockud, uns flest blodin verda bláleit, og sé

en ad blanda því saman við skyr, gjörir hvertveggja smecklakara. Súr-blöndu má og líka af því Káli gjöra, þegar vatn er látið á því standa uns súrnar, og síðan brúkað í syru stað, og halda menn erlendis það hollañ drycк.

---

## 11. Um ýmislegar Gard-jurtir, hentugar til kryddunar og heilnæmis.

a.) Kúmen. Það sáist heldur á haust eñ á vor í allskyns þurrlenda jørdu, sem ádur sé vel ræktud. Arfi verdur frá því ad nemast,

---

þeim velt vid í pottinum, svo ad jafnsodni lítid eitt; er það þá upptekid og strax látid í heldid ílát, pressad med haganlegum hlemmi og steini; svo er á sama hátt sodinn hverr potturinn fullur ad ødrum, uns fullt er ílátid, og pressast sídan vel, svo ad løgurinn renni frá. Þyki hann ad nockrum døgum lidnum ecki nægilega súr, þá skal gjøra holu í midju ílátsins og hella í hana sjódandа vatni. Eins og Kálrapi mun reynast almenningi hér einhver hin notabesta kál-tegund, svo er það Súrkál ómissandi, ad minnsta kosti med ødru Káli, søkum þess, það hefir þá mestu og þægilegustu syru í sér. Þegar Kálid skal matreida, er það skorid, eins og það er úr ílátinu tekid; en þeir, sem vilja, géta tekid súrbragdid af því med volgu vatni. Sé það — eins og segir — laglega tilbúid, reynist það smeckbetra enn nýtt Kál á sumrum ádur frost fær. Geymist Súrkál þetta árlángt óhult í heldu íláti.

en þó varast ad slíta ecki þær úngu Kúmens-plöntur upp ásamt, sem eru honum í fyrstu nockud svipadar. Ecki er ad búast vid upp-skéru Kúmensins fyrr enn á 2ru og 3ja ári frá sádtímanum. Þau fræhofud, sem þá fyrst koma fram, eru afskorin, þegar þau eru brún-ordin ad lit og fræid laust, eru þau sídan þurk-ud, en fræid strokid edur núid af. Kúmen er heilnæmt og ljúffengt ad smeck í braudi og kálsúpum, blódmörvum og margskonar mat.

b) Spínat og Kjörvel. Þessar jurtir bádar eru yfrid fúsar til ad vaxa hér, og því audfengnari fyri þá, sem stunda Gardyrkju. Til þeirra sáist bædi haust og vor fríhendis, svo ad fræid falli nockud þétt, heldur í deig-lenda enn þurra jordu; sídan er fræid nidur-mildad med hrífunni. Vökva þarf þessar jurt-ir ádur enn uppkoma, hvers opt má lengi bída. Kjörvel má geyma til vetrar brúkunar þurk-ad, en Spínat eckí.

c.) Salat og Skarfa-kál. Til þess er sád á vorum snemma í góda jordu, og med þad farid sem Kjörvel um vaxtartímann og í sáníngu. Þessar jurtir eru vel blódhreinsandi og hollar vessaslæmum mönnum; því skyldu líka Gardyrkjunnar vinir leggja rækt vid þær.

---

## 12. Um Fræ-mædur.

Þad er einhver sú laglegasta og þarfasta byr-jan Gardyrkjunnar, ad festra upp Fræ-mæd-

ur, því þær endurgjalda ómakið ríkuglega, ecki einúngis með fræi sínu, hvar. af allur garða ávöxtur og ágóði flýtur, heldur gefa þær oss kúsa laungun til að hagnýta fræði þeirra, sjálfum oss til unaðsemda., og sanna oss þar hjá, að Kálgarðar vorir færa af egin fræi meiri arð, enn af útlendu; líka þurfum vér þá síður bera gráboga fyrir fræleysi, hvert mörgum er opt til meins. Þess vegna vil eg ecki gleyma að minnast á helztu nauðsynlegar Athugasemdir um Fræ-mæður:

Flest-Næpna- og Rófna-kyn, ásamt Róta-káli og jafnvel Græn-káli hefir ljúft verið á að bera hér fræ; eru þar til valdar þær stærstu, edur því nærstu rætur, sem og eru laglegastar í vaxtarlagi, hver eptir sinni tegund. Á haustin eru þær fráteknar, og ecki afskorið kálið mjög nærri þeim, svo ecki skérðist hjartað sjálft. Síðan eru þær hér til voldu rætur lagðar útaf fyrir sig, og skal sem best varðveita þær fyrir frosti, einninn því, að þær gröi nema sem minnst — sem þó orsakast kann af ofmiklum il — áður niður eru settar, sem gjert sé svo snemma, sem fært er, á vorin, í góðu skjéli og mót sélu, hvar jörð er sæmilega þurr, vel feit og moldar-rík, en ecki nýtodd áburði. Eins djúpt, en þó ecki dýpra, skal setja þær og þær stóðu í vexti árinu áður, nema ofirjarðar kál-artir, sem má setja svo nock-uð gángi uppá leggina. Ecki fer það vel, að setja af fleirum jurta-tegundum saman, heldur

hverja útaf fyrir sig, og láta vera lángt á milli um; því annars feykir golan frædupti blómstranna hvert á annad, hvaraf sædid úrkynjast; og med sanni má þad segja: ad húnángs- og adrar flugur, sem opt vilja ásækja þeirra blómstur, olla þessu sama, med því ad flytja frædúptid, sem þó varla er sjáanlegt, á fótunum sér, af einu blómstri á annad, þegar þær eru ad safna húnángi sínu og vaxi af þeim. Bekkva þarf í öndverdu ræturnar med vatni einu og þá fyrst plantadar vóru, og sérílagi hyrda vel um ad frost ecki nái þeim, eptir þad nidursettar eru, med líku móti og med Vermibed er farid. Líka skal binda greinarnar lauslega med mjúku ullarbandi, vid nidursettann hæl edur styttu, þegar þær eru háar ordnar, einkum þá stormar uppáfalla, svo þeir géti ecki kollvarpad þeim. Á haustin skal gæta ad safna fræinu, þá fræpúngar taka ad opnast og hvítna; þad, sem seinast ecki fullþroskast, er med staunglum ellum þurkad svo: ad rótinni er kippt upp og oll staungin svo bundin innaní gisinn dúk, sem gégnum géti blásid, og snúi toppurinn nidur, sé hún sídan hengd upp í hús hvar dragsúgur er, til þerris, þroskast þá skjótt þad, sem ad gagni er, Þurka þarf allt nýtt fræ sérlega vel og lengi, svo ad ecki myglí; geyma skal þad sídan í þunnum léreptspoka, sem hengdur sé undir lopt edur rjáfur, hvar ecki sé rakasamt, en adgætt vid og vid hvert ecki myglar.

## 13. Um Kartofflur (Jardepli).

Um ræktun þeirra hefir Kaupmadur H. W. Lewer í Eyafiardar Kaupstad útgéfid ágæta Ritgiørd, prentada í Leirárgørdum 1807, sem ýmsir eiga og mega vel fylgja í tédu efni. Þó hefir engu sídur dæmi þessa framqvæmdarsama manns, enn áminnstur Ritlíngur, upphvatt margann til ad stunda, fér til bestu nota, Kartofflu abla hér nordanlands. Óskandi væri, ad enn fleiri já, allir, vildu fylgja hans dugnadar-dæmi; einkum þar Kartofflur eru í alla stadi þess verdar, ad menn leggi kappsmuni á ræktun þeirra, jafnvel fremur flestra annara ávaxta, er hiá oss vaxid géta. En vegna þeirra, er hverki hafa hans rit um Kartofflur fyrir hendi, né siálfir géta sied hans ræktunar adferd, vil eg hér fátt eitt um hana tala.

Kartofflur þrífast í allskyns iørdu, sem vel er tedd, því áburdar þurfa þær sérlega vid, ásamt gódu skióli fyrir áttum þeim, hverium frost og kulda-nædíngar tídast fylgia. Til útsáds ber ad kappkosta framar ad velia þær svo kølludu snemmvøxnu Kartofflur, sem eru aflângar, heldur enn þær hnøttóttu, því hinar hafa bædi fliótari vøxt og þægari smeck. Til gródursetníngar eru aldrei valdar smáar, þá edru verdur vidkomid, þar af því vildi leida med framtíd, ad urtin yrdi smærri. Kartofflu-gardinn skal, svo tím-

anlega sem verdur eptir sumarmál, undirbúa og uppstýnga eins og ádur er rád fyrir gjört um adra matjurta garda, má, vid nidursetníngu Kartofflanna, fylgja, hvert heldur vill velnefnds Kaupmanns Lewers fyrisögn, edur annari, nockud frábrugdinni, þanninn:

Spenna skal gardsnúru yfir Kartofflu-sáníngs reitinn, hverjum ecki er, í bed skipt, né heldur gerdir gjordar um, heldur látin vera, í sömu mind, sem hann fékk vid uppstúnguna og yfirjöfnún med hrífunni. Snúran sé spennt undan og á móti hallandanum, ef nockurr er, edur og í beinni línu móti hvössustu veduráttum, sem uppá gardinn stadid géta. Sé snúran þannig strengd, má gánga hiklaust, en þó lagslega, ofan med henni ødrum-megin, en hinum-megin snúrunnar sé gjord hérumbil 3gja þuml. djúp renna, med spada edur reku-horni, í hverja lagdar séu Kartofflurnar, af ødrum manni — sem hefir þær í svintu framan á sér — hálfs annars qvartils lángt hver frá annari, hvar á ofan — hvad 3ji madurinn gjörir — sé lögd handfylli af muldum áburdi ofan á sérhverja, uns rodin er búin, A medan tvennt hid seinna skédur, gjörir sá fyrsti nýa rennu á sama hátt, hinum-megin sín vid adra hönd, utan vid sporin, eda þann trodníng, sem vard eptir hann vid þá fyrri rod edur rennu, og lætur verda, ad minnsta kosti, 3gja qvartila millibil á millum Kartofflu radanna. Séu þessar tvær rennur búnar, sín á hverja hönd, er byrjad innan í

reitnum, á sama hátt, en troðníngarnir sáznir verða á milli annarar hverrar raðar, uns öllu verkinu er lokið. en að síðustu er rakað þeirri. uppróutu mold ofaná rennurnar aptur með hrífu, svo slétt verði að mestu. Þessi aðferð, að setja Kartöfflur í raðir, er lángbrúkust; líka er þá til moldar nægð milli hverra raða, til að róta upp með leggi þeirra þá upp vaxa, sem gjöra ber 2svar eða 3svar á sumri, helzt eptir rigníngar. Við þessa aðferð er líka greiðast og fljótlegast að uppræta Arfa og annað íllgresi með skofnjárninu, áður enn Kartöfflurnar eru svo vaxnar, að mál sé orðið að hrúga moldu upp með þeim. Í alla þá garða, sem Arfi á heima, er best að setja Kartöfflur á sagðann hátt; því við jarðar umrótið, og við skofnjárnsins brúkun, fær hann ecki tíma til að dafna, líka byrðast Kartöfflur í sjálfum sér vera Arfans yfirdrottnandi óvinir, og ættu því í þeim tilfellum, ecki að hlífast við að umróta og hrúga moldinni í kríngum þær, hvar við jörðin mýldist og verður hæfari síðar fyrir aðra ávepti. Að láta Kartöfflur taka gróðri á hlýum stað, áður enn niðursettar eru á vori, hefir opt vel gefist, þegar hann ecki verður of mikill. Vökvunar þurfa Kartöfflur ecki við, því best spretta þær í hitasumrum. Geymsla þeirra er hin sama, sem áður er sagt um Næpur og Ráfur. Heilsnæmar þykja þær og nærandi.

## 14. Fátt eitt um Matar-tilreidslu Gard-aldina.

Un efa stunda margir svo lítt Gardyrkju, ad þeim þykir hún ecki bjóda sér þægilega og ljúffenga fædu; því hverr mun sá ervidi skeyta, sem vita þykist ad þad verda muni því nær ardlaust? því mun þeckíngar- og adburda-leysi med rétta gardvaxta matreidslu adal-orsökin, hvers vegna almenníngi gédjast svo lítt kálmetis fæda. Matmædur ættu því ad stunda þeckíngu káljurta hentugustu nýtíngar; því á medan ecki býdst réttur smeckur á gædum jard-aldina, er ecki ad furda þó margir hleypidómar fellist um Gardyrkju, einna helzt af þeim, er minst bera skyn á jurtanna gædi til manneskjanna uppheldis og næríngar. Reynd nor, heilnæmi og þægilegur smeckur margra kál-jurta, mundu því efalaust gjöra menn atorkusamari vid afla þeirra, bæru þeir skyn á og vildu þær réttilega hagnýta. Eg vil því hér lítid eitt víkja á matjurtanna haganlégustu tilreidslu.

Adur hefi eg nefnt, hvernig Kál skal geyma, og talid rádlegast ad salta Kálid ofan af Kálrapí; en ef svo mikil byrgd af því kynni vera, ad þessu yrdi ecki vidkomid, þá ad gjöra úr því Súrkál, en verja Grænkáli til soltúnar. Sumir kynnu og ad nýta Næpna- og Rósu-kál til þess, hverr þó betur er kjörid til ad géfast mjölkur-kúm, ef nóg er til af því, þar

sannreynt er, að sú kýr, sem því er orðin von, launar með 6 pottum smjör-ríkrar mjólkur, fram yfir hennar vanalegu nyt, í tuñu þvílíks Káls, þegar hún fær herumbil í skeppu í mál af því; eða sé það geymt í smáum faungum eða drýlum á báum stað, hvar vindsvalt er um, en snjór fái þó ekki að því fallið. En hvað sjálfa matreiðsluna snertir, þa skal nefnast:

a.) Kálsúpa. Hvert heldur brúkað er nýtt eður saltað Kál til súpu, er einfaldastur mátinn þessi: þegar búið er að sjóða spadkjötið um hríð í vatni, er þar í látið nægilega mikið af smásoxuðu Káli, og síðan sest með byggmjöli eptir þörfum. En til smeckbætis er gott að hafa með Kálinu lítið eitt af Kjörveli eður Kúmeni.

b.) Kálstappa edur Lángkål. Hún er eginlega gjord af Hvít- eða Græn-káli, úr hverju leggirnir ryfnir séu, en blöðin þvegin í köldu vatni, látin svo ofaní tilluktann pott með sjóðanda vatni í, og lítilræði af salti. Þegar þau eru þar í meyr orðin, skal þau upp úr færa, og leggja í kaldt vatn, hvar við þau aptur verða fagurgræn. Svo eru þau upp úr því vatni kreyst og soðin með mjólk eður rjóma, en ef vill, þar úti látið smjör, ásamt steyttu Engifeti eður Kúmeni til smeckbætis. Í þessu sé síðan vel hrært og það sjóða látið, uns vel meyrt verður. Þessi Kålstappa þykir ágjæt

med Kjøti, Slátri, Bjúgum, Laxi, Silúngi og Plokkfiski og fl.*)

c) Spínats-Stappa. Hún er á sama hátt tilbúin og Kál-stappan, nema hvad Spínatid er nockud frekar sodid enn Kálid, ádur enn upp úr se fært, og má med því brúka Súru-blodkur. Er Stappa þessi notud til matar, allt eins og hin.

d) Næpnastappa. Þær ega ad verkast vel frá aungum og berki; sídan sjódast og

*) Eg þecki fátækann bónda, sem mest stuggadi vid Kálmeti; en svo vildi til, ad hann sádi í gard, sem var á heimili hans frá fyrri tíd, og spratt þar ágiæta vel Grænkál. En vegna biargrædis skórts um sumarid, fór hann á fund Hreppstjóra sins, og bad hann ráda sér, hvernig hann skyldi biargast um sláttinn, svo fylgt giæti hey-onnum. Hreppstjórinn, sem var gódsamur og hygginn, lánadi honum hálfa sképpu af Ertum, og hét honum þó meiru sídar, en rádlagdi honum þar hjá, ad hann skyldi smámsaman nota sér sitt velvaxna Grænkál, og sagdi honum hversu Stappa væri úr því giørd. Bóndanum — sem í fyrstu fussadi vid kenningu hins — þókti þó forvitnisverdt ad reyna, hversu miklu hann giæti diktad; en svo fór, ad seint á engjáslætti kom bóndi á fund hans aptur, og játadi þá, ad hann hefdi allteins vel kosid sér Kálstøppu sína í middags verd, sem Erturnar. Ad vísu grunadi mig — ansadi Hreppstjórinn — ad eitthvad valda mundi, ad þú sóktir aldrei þad eg lofadi þer, en sízt þenkti eg þetta.

steikjast; hvar eptir þær eru á-ný yfir glædur settar, með nockru af feiti, rjóma edur miólk, og svo brúkadar med fisk- og kjot-meti. Lika má skéra Næpurnar hráar vel smátt, og þannig brúka þær med mjöli edur grjónum, þó best med byggmjöli, til miólkur-granta.

e.) Kartofflur má á sikann hátt medfara, og eru þær fullt svo þægilegar med miólk sodnar í þycka vellíngu. Kartofflu-stoppu — og eins þær úr Næpum og Káli — má blanda saman vid blaut- eda pleck-fisks stoppu, sem þá verdur allgód fæda. Eins hagar vel ad brúka allar þessar stoppur med kiöt-meti, sem þar vid verdur bædi ljúffengari og hollari fæda, enn ella.

f.) Audrádid er, hversu mikid mjöl spara mætti jafnvel árid út med Kálrapí-rótum — sem notadrjúgastar og bestar minnu lengst reynast — Næpum og Kartofflum. Því þar, sem miólkur-grautar eru svo vanalegir hjá oss, set eg ad þurfi 5 potta mjöls, í þad minnsta, útá 25 potta vatns-blandadrar miólkur, sem verda mætti helfíngi minna, ef af velsfornum Rófum, Næpum edur Kartofflum vidbættust 12 pottar. Þar ad auki drýgist grauturinn meir af því, enn af mjölinu, vegna vaxtarmunarins á hverjutveggja. Somuleidis eru Kartofflur sodnar og velstappadar hentugar til braudagjördar, og er þá mjölid hnodad saman vid þær, uns deigid verdur mátulega hardt.

Þannig tilbúid braud fer þó betur ad baka undir potti, svo ad sem mest líkist ofnbökudu braudi. Eins má og Ertur til helfínga drýgja, med því ad bæta vid þær hálfsodnar skörnum Kálrapí-rötum edur Kartofflum. Ad steikja Rófur og Kartofflur, undir potti, sem hvolft sé yfir glód, og eldur ofaná hann látinn, eins og þegar braud er bakad*), gjörir þær vel sætar ad smeck, og bordast þær svo med soltudu smjöri. Líka mega þær í tómri eym-myrju steikjast, og verda þá engu lakari.

---

Jafnvel þó nú þetta Agrip um Gardjurtanna notalegustu medferd til matreidslu, ecki eginlega tilheyri sjálfri Gardyrkjunni, sýndist mér þó ecki ílla tilfallid, ad láta þad hér med fylgja, þar eg er ad raun kominn um þeckíngarleysi, ýmisra sveita-manna, ad vonum, þar á, og jafnvel framar enn á Gardýrkjufrædinni sjálfri, hver þecktari er ordin enn hitt, bædi af margra merkismanna adburdum, er hana ræktad hafa, og af gódum ritgjördum, hverjar þó færstar minnast til hlýtar á jurtanna matreidslu, eins og þorf sýnist vid nýbyrjada Gardyrkjunnar þeckíngu, því fáir hirda um þad

*) Þeim er hafa næmann eldivid, þykir betra ad baka slíkt í upphvolfdum potti, med járnplötu og eldi ofaná.

af álüð, sem þeir ecki vitá hvernig til gagns-muna brúkast skal. Eñ noti madur sér nú mat-jurtirnar á áðursagðann hátt til búsílags, mun hverr einn aðgjætinn madur betur og betur sjá þeckta nytsemi Gardyrkjunnar, og læra sjálfur að haga sér þar eptir, með adra bjargrædis útvegu, svo sem grasatekju, sjósókn og fl., hverjum optast verdur um Gardyrkju-tímann að sæta. Mun þá reynslan betur eñ nockurr reikníngur kénna honum, hvílíkann blessadann ard vel ástundud Gardyrkja, eptir sérhvers búskapar kríngumstædum, gefa gétur, og sjálf-krafa upporfa hann til, ad leggja sig, sem best, eptir henni. Vona eg nú, að sérhverr skyn-samur madur, við yfirvegun þessa efnis, sann-færist um: að tilgángur minn med þessari stuttu Vegleidslu sé ecki annar enn sá, að géta gagnað þeim, sem lítt edur ecki hafa áður þeckt þann mikilvæga bjargrædis-veg: Gardyrk-juna; edur fyrir vanaleysis ellegar hleypidóma sakir, ecki viljað leggja hönd á hana, sem telja mætti jafnvel synd á móti Náttúrunnar logmáli.

Að endíngu vil eg bidja alla þá af mín-um kjæru Landsmönnum, sem Gard-yrkjunnar vinir eru, og hafa gott skynbragd á henni: að auka hana og útbreiða medal sem flestra, er þeir fá orkað, svo að hún æ betur fýnt gæti sína miklu gagnsmuni, í tilliti til margs þess, sem enn þá ecki er, eins og skyldt, um hana þeckt hér á landi, svo að vér, sem

flestir, gætum samtaka ordid í lofgjørd Skaparans, fyrir þá dásemd, ad láta oss loksins, sem búum rétt sem á hala veraldar, verda ásamt ødrum þjódum, njótandi þeirra Náttúrunnar gæda, sem hann í øndverdu áqvardadi mañkyninu, ásamt ødru, til uppheldis og unadar.



# Vidbætir.

## Um Vidar Pløntun.

Jafnvel þó eginlega væri þad áform mitt, ad skrifa þennann Gardyrkju Ritlíng svo fáordann, sem ordid gæti, vil eg samt ecki undanfella, stuttlega ad víkja á einfolduſtu adferd Vidar gródursetníngs, hvern eg veit reyndann vera í fáum stødum hér innanlands, og þar þó luckast vonum betur, einkum med Reyni-vid og Gul-vídir, á hverjar artir eg vil hér lítid eitt minnast, ef ské kynni einhverr vildi færa sér undirvísun þá í nyt, og prýda þanninn Aldingard sinn þeim skrúda, sem ecki einúngis yrdi Gardinum til fegurdar, heldur Egandanum til sóma.

Fyrst nefni eg þá Reynirinn (Sorbus aucuparia), og skal med fám ordum lýsa þessu snotra tré, ef nockrir vera kynnu þeir, sem ecki

Þeckiu Þad, Þókt fyrir Þá bæri í skógum edur annarstadar, t. d.: í ár-giljum, hvar eg hefi Þad opt fyrirhitt.

Ad óhindradri náttúru sinni á Reynir-inn ad vaxa upp-réttur, med mörgum sídu-greinum, einkanlegast nærst toppi hans, út úr hverjum spretta adrar smærri med blödum á afleungum, smátenntum á röndunum, eru Þau réttlínis hvert út frá ödru á qvistunum. Efst á greinum hans vaxa hvítleitir blómsturkransar, — ef gamall er ordinn — sem verda ad háraudum berjum, á vöxt vid krækjuberin eda lítid stærri. Hitti menn Þvílíka hríslu, og vilji nota qvistu hennar til gródursetníngs, á ad skera Þá af med beittum knífi, lítid eitt á snid, velja helzt til Þina nedstu til vaxtar nærst rótinni, sem ecki hafa borid blóm; Þjá skal og til, ad Þeir ecki feyskir séu. Ecki megu Þeir styttri vera enn 3 qvartil; ber Þá helzt ad gródursetja á haustum, eptir ad lauf eru affallin, edur svo snemma á vorin, ad Þau ecki séu útsprúngin, annars er Þad í ótíma og til einkis. Þá afskornu qvisti Þarf vel med ad fara, og vefja utan um Þá votum dýjamosa, ef flytjast ega lángt ad, svo ad Þeir hverki Þorni né brotni, sem hætt yrdi vid á lángri leid. Adferdin ad gródursetja Þá, er Þessi: Hvar sendin jord fæst, sé stúnginn reitur, líkur gardbedi, hvar í blandad sé lítilrædi af gömlum áburdi, skal sídan stínga med spada eda reku holu í moldina lódrétt nidur, og Þrýsta

henni frá til beggja hlida, ádur upp er dreginn; annar, sem hjálpar til, setur qvist einn í þessa holu lódrétt nidur, svo djúpt, ad nærseldt helfíngur hans stíngist nidur í moldina. Sá fyrri stíngur sídan spadanum zur þumlúngum frá fyrri holunni á hlid vid hana rétt nidur, vel svo djúpt sem ádur, og þrýstir sídan svo þétt sem verdur mold þeirri, sem milli er, og fyllir þá seinni holu; jafnar sídan moldinni umkríng qvistinn, svo ad laut sé ad honum, og vatn þad, sem ad sé hellt þá vokvad er, renni ecki frá, heldur sígi nidurmed plontunni. Séu margir qvistir plantadir í einu — sem betur fer, svo hverr hafi skjól af ødrum — er látid vera álnar bil milli hvers þeirra. Ef verk þetta er á haust-tíma gjort, þá sé ecki vatnad fyrri enn á vorin, þegar jord er ordin þýd. Annars skal þess jafnan gjæta, helst þegar trjávidar plontum er plantad á vor-tíma, ad vatna trúlega, svo moldin verdi vel blaut kríngum plonturnar; líka er ómissandi ad láta á vorum qvistanna nedri enda standa í vatni um 2 eda 3 daga, ádur gródursettir séu.

Sama, eda mjøg svo lík adferd er brúkud vid Vídir-tegundir, og skyldi helzt velja til Gul-vídir (Salix vitellina), sem vid þessa adferd og grédursetníngu gétur vordid ad nockurnvegínu háu tré. Einúngis er þad afbrugdid því ádur umgétna: ad skéra skal af mjórri enda qvistanna lítid eitt, því þad vill í

fyrstu af sjálfu sér vísna, og orsaka síðan fúa í adal-stofnunum; líka ser best ad afsnýda alla síðu qvisti, sem sprotta vilja útúr þessum plöntum, ad undanteknum þeim stærsta, sem óskérdtur er ætladur til ad verda tréd sjálft; en vaxi þessi qvistur nedarlega, má ætíd afskéra þann gamla stubba, sem fyrir ofan hann er, á snid, svo ecki standi vatn þar á; og klína síðan á sárid samanblöndun af kúamykju og leiri.

En þó Birki sé eitt af þeim fáu Trjá-vidar-tegundum, sem viljugast og sjálfkrafa vaxa hér allvída, læt eg samt sem minnst um þad talad ad sinni, af því eg þykist ecki hafa fengid gott tækifæri til, ad gjöra þar med á-reidanlega tilraun; þó vil eg þess minnast: ad til Birkis er vandalítid ad sá, þegar fræid er gott, og er þad vissulega fáanlegt eptir góð og hlý Sumur, í þeim bestu íslendsku skógum. Þar til skal velja þá stærstu og brúnleitustu fræ-knappa ofaná Birkividar hríslum, þurka þá og sá þeim snemma á vorum í nockud sendna jörd, sem sé vel mulin og smá. Ecki má fræid fara dýpra í jördina enn svo, ad þad ad eins hyljist, og jafnvel má þad liggja ofanjardar, ef vidar afqvisti er dreift þar á ofan, til ad halda hedinu roku. Þannig skal þad standa í 3 eda 4 ár þar til gródursett verdur.

Þad mundi ecki ólaunad, ef nockur hér á landi legdi ástundun á ad sá til Trjá-vidar,

sem verda mætti stofn til, vorra heilla í því; ad fá orsada lyst og kostgæfni til áskundunar í tjedu efni, hvers vér megum nú einkum sakna. Eg ekast ecki um: ad Greni, Birki og ýmislegar tegundir af Vídir, ásamt Reynir, géti vaxid á voru Íslandi, vantadi ecki kunnáttu til ad rækta þær, né heldur dugnad til ad stipta Plöntunar-skóla, sem erlendis er ás, litinn ómissandi, og því vída brúkadur.



Ádur enn eg sleppi þessum fáu ordum um, svo mikilvægt efni, vil eg ávarpa mína kjæru Landsmenn, sem rád hafa yfir þeim einstöku Birki-skógum, er eptir standa og syrgja sína follnu fegurd hér hjá oss, ad bera vildu umhyggju fyrir þeirra vidhaldi, med því eina, sem mögulegt er, nefnilega: ad verja þá fyrir allri qvikfjár beit á øllum ársins tímum, þar hún er skógum þeim, í sannleika ad segja, skadleguft. Þar nærst ad uppræta aldrei þær hríslur, sem ósúnar eru, en þó allra sízt rætur þeirra, hverjar med tímalengdinni uppskjóta nýum hríslum aptur. Þarámóti er skadlaúst ad uppræta hinar, sem farnar eru ad feyskjast, og þad med øllum þeirra rótum.

Vildu Landsmenn vorir gjæta þess ætíd, hverſu mikilsverdt er, ad bera umhyggju fyrir Eptirkomendum ſínum, mundu þeir, yfir høfud ad ſegja, ecki fara eins margs góds á mis, eins og vér nú fyrir álíkann umhyggju breſt vorra Forſedra fyrir vorum heillum.



